Undirvísan fyrir Sjúka, einkum Óumvendta, sem lesast kann annadhvort af sjálfum þeim, edur ödrum fyrir þeim.

Farsælar eru manneskjur þær, er svo hafa lifad, ad þær eru vel undirbúnar ad deyá! En ó þær óluckuligu sálir, sem enn nú óvidbúnar eru, til þeirra vildi eg tala; og ó ad Gudi þóknadist ad blessa ord þessi, þeim til umvendunar, medan tíminn er ecki aldeilis úti! Hefdi syndin ei svo mjög trylt manneskjurnar, og gjört þær hneigdar til ugglevsis, væri ómoguligt, ad eylífdin, sem svo nálæg er á hvorri stundu, gjæti fallid þeim svo úr minni, sem raun géfur vitni; svo þeir skjóti umvendun sinni á frest, uns þeir sjá, ad Daudinn ætlar med makt ad slíta þá í burtu.

Ef þú nú, minn Vin! sem les ord þessi, edur heyrir þau lesin, mátt óttast ad þú sért í tölu þessara óluckuligu, en villt þó ei fordæmdur verda, gjæt þá í Guds nafni ad, og heimfær til þín eptirfylgjandi atridi:

1) Hugleid hvad þú ert, og til hvörs Gud setti þig í heim þennan! Þú ert manneskja, gjædd

skynsamri sálu, sem skøpud er til ad þeckja Skapara sinn, elska hann og hlýda honum; og þetta ecki einúngis útvortis, heldur einkum innvortis, med heilögum þaunkum og girndum. Skyldi nú ei skèpnan lifa til þess augnamids, sem Skaparinn ætlad hefur? Skyldi hún framar unna sinnar elsku og þjónustu ødrum enn honum; framar þeim, sem eru hans svarnir óvinir, holdinu og heiminum? Hvør gétur tekid í forsvar slíka breytni? Til hvílíks straffs vinnur ei manneskjan þar med? vissuliga til straffs eins Drottins-svikara! Gud, sá heilagi og réttláti, lætur ei ad sèr hæda!

2) Hugleid þessu næst, hvørsu manneskjan, sídan Adam syndgadi, er ramspillt ordin, svo hún er hneigd til alls þess sem Gudi er stygd ad, og henni sjálfri skadligast, en bitin frá øllu sannarliga gódu. Med þessari spillingu fædast allir í heim þennan, og eru þessvegna af náttúrunni óhæfir til Guds ríkis, og hefdu allir hlotid eylífliga ad fortapast, ef Gud hefdi ecki meiri miskun á þeim gjørt. Þessvegna sendi hann sinn elskuliga Son í heiminn, til ad gjøra manneskjunum møguligt, þó med þessari Spillingu fæddar væru, ad verda sáluhólpnar; þó med þeim skilmála: ef þeir vildu vinna þad til, ad gjørast hans Sonar sannir undirsátar, og strída sífeldt móti sinni

medfæddri spillíngu, og láta hana ei yfir sér drotna; þad er strída á móti síns eigin holds og blods kjærustu girndum og heiminum, og þessu framhalda allt til daudans. Ef þeir þettta gérdu, hét Gud þeim sinni nád fyrir Jesum Christ.

3) Athuga í þridja máta ad þetta er nú Sáttmáli sá, sem vér allir bundum vid Gud í Skýrninni, þegar vér lofudum ad afneita Djöflinum og öllu hans athæfi, en trúa á Gud fodur, Son og heil. Anda, á hvörs haldi ad rídur vor eilíf Sálar velferd. En adgjæt nú þar hjá, hvörsu þeir stýrdu Christnu skiptast í tvo flocka; sumir gleyma þessum sáttmála vid Gud, og gánga vísvitandi í lid med hans óvinum, þjóna sínum eigin holdligu girndum, hvör eptir lund sinni, og dansa eptir heimsins pípu í andvaraleysi; Gud og eilífdin hverfur frá þeirra augum; og þó þeir sýnist vid ad dýrdka Gud útvortis, er þad eingin alvara, sem sést af því, ad hjartalag þeirra og lifnadur betrast þar ecki vid. Þessir, sem svoleidis breyta, eru allir Guds óvinir, og þeim er ómoguligt eilíft líf ad fá, ef þeir þessu á fram halda. Adrir þar á móti taka fyrir sig — fyrr edur sídar — ad lifa eptir sínum skírnar sáttmála. Þeir strída því fyrst og fremst móti sjálfum sér, sínum kjærustu girndum og tilhneigíngum, sem þeir vita Gudi eru á móti, þarnærst gégn

heiminum, í því ad fylgja hvorki dæmum hans né drætti, hvad sem þad svo kostar, og hvad sem þeir baka sér þar med. En af því þeir af náttúrunni eru syndspilltir, hrasa þeir opt óvorum og óviljandi; þessvegna fylgja þeir Jesú rádum, ad vaka og bidja óaflátanliga; já bidja um fyrirgéfningu synda sinna, og heilags anda adstod, til ad géta varaudi farid í því góda, hvörs leidslu þeir því trúliga fylgja. Þessvegna eru þeir sífeldt audmjúkir fyrir Gudi, færa sér í nyt Gudsord og Sacramentin dyggiliga, og feta eptir Jesú sjálfs-afneitunarinnar þraungva veg, allt til daudans. Þessir einir heita og eru Guds börn, og þeim er eilífs lífs von, hvenær sem hér vid skilja.

4) Hugsadú nú um, í hvorra þessara tölu þú vera munir, því nú rídur þér óseigjanliga mikid á því; nú er timi ad vakna til fulls, hafirdu ádur sofid í draumi andvaraleysisins. Nú sýnist daudinn standa fyrir dyrum, og ætli ad stefna þér fyrir Gudsdóm. O hvörsu illa ertu þá farinn, ef sála þín fer óumvendt út af líkamanum og heiminum. Undir eins og daudinn hefur sundurrifid fortjald þíns líkama, þá kémur þú inní adra veröldu, frá hvorri þér hefur ad sönnu ádur sagt verid, en þú hefur þar lítt gaum ad géfid; í adra Veröldu, seigi eg, hvar þú á adra

sîdu sér, ótal þúsundir heil. Eingla og útvaldra sálna, sem tilbidja Gud og vegsama í ómælanligum fögnudi og sælu; en á adra muntú sjá skélfiligan grúa af Djöflum og fordæmdum Manneskjum, sem sokuar eru i stærstu kvöl og örvæntíngu; þú munt heyra hvörsu þær brixla sér um dármensku sína í lífinu, fyrir þad þær foraktad og vanrækt hafi sér frambodna Gudsnád og medöl sáluhjálparinnar, hafi þjónad holdinu og heiminum og svæft samvitsku sína. Og — undireins og þú þetta sér og heyrir, muntú heyra Dómarans úrskurd, sem áqvardar þína eilífu vistarveru, í ödrum hvörjum þessara hópa. Nú getur Samvitska þín nockurnveiginn fyrirfram sagt þér, í hvörjum hópnum þú munir adsetur fá, eptir því sem nú er ástadt um hagi sálar þinnar.

5) Þessvegna kalla eg enn til þin: æ vaknadú, vaknadú; þar er ecki nema eitt fótmál milli þín og daudans, já eilífs dauda, hvar þeirra ormur deyr ecki og eldur slocknar ecki. En þó kunngjöri eg þér þad í Guds nafni, ad fyrst þú enn nú lifir þessumeigin grafarinnar — já enn nú á þessu hættufulla augnabliki lífs þíns, — frambýdst þér Guds nád, ef þú kannt og villt réttiliga móti henni taka. Viljirdú spyrja: hvörnig skal eg ad því fara? hvörja adferd brúka?

D

Eg svara: Umvendtú þér, og trúdu á Drott-inn Jesúm Christ. I tilliti þess fyrra, edur umvendunarinnar, hljóta syndirnar — einkum þær hvorjar þú elskad hefur, og verid mest tilhneigdur — já allar syndir yfir hofud, ad verda þér gallbeiskar, svo þær, á sinn hátt, plági meira sálu þína, en sjúkdómurinn líkamann, þær verda ad gjorast þér jafnvidbjódsligar sem óttaligar, því annars géturdú ecki eins hatad þær sem hrædist, á hvorju þó mest rídur, ef sinnaskipti þín eiga sonn ad vera. Til ad gjora syndina þér sem óttaligasta, þénar, ad þú horfir grant í Guds logmáls speigil, og adgjætir hvorsu þá eitt og serhvort hans blessudu bodorda brotid hefur leyndt og ljóst, í hugsunum, ordum og verkum, bædi med því ad gjora þad vonda og forsóma þad góda, og hugsadu sídan til, hvílíkan óttaligan fordæmingar dóm þad leggur jafnt yfir alla sína yfirtrodslumenn. Nú þó þú hafir ecki allslags útvortis stórsyndir framid; þó hvorki hafir þú mann végid, hórast, stolid edur meinsæri unnid, ertú allteins í fordæmanligu standi fyrir því; þegar hjarta þitt hefur þó verid saurgad þeim gyrndum, sem optast eru rót þessara útvortis stórglæpa; svosem reidi, lauslæti, ágirni og fleira. Vita skaltu líka, ad forsóman þess góda gétur eins ordid þér til fordæmingar, sem athofn þess

vonda; t. d. þó ecki hafirdu lastad Gud, hafirdu ecki dýrkad hann og tilbedid, ertú eins dandasekur; þó ecki hafirdu rænt hann fé né flori, hafirdú ecki þegar þú gatst, hjálpad uppá hann í neydinni; þó ecki hafir þú talid hann til ad syndga, en hefur ecki aptrad honum þar frá, þegar þér gafst tækifæri, gétur þetta ordid þér til fortöpunar; þessar íhuganir meiga gjöra þér syndina yfrid óttaliga. En viljirdú hún verdi þér og svo vidbjóds- og hatur-lig, þá hugleiddu, móti hvörjum hún drýgd er; móti Gudi, hvörjum þú átt allt gott ad þacka, til lífs og sálar, já hvör ed jafnvel hefur gjördt þér gott midt í því þú hefur verid ad módga hann, og enn nú frambýdar þér nád sína; hugsadú til þess, hvad Jesús Christur sonur Guds mátti mikid lída syndanna vegna, þegar hann, yfirgéfinn af Gudi og mönnum, béck og dó á krossins gálga; þeinktú um, hvad syndin er vidbjódslig í himninum, þar einginn, af henni saurgadur, gétur í þá himnesku Jerúsalem innkomid, heldur verdur þadan útilokadur eylífliga. Géti þessar ámindanir ordid fastar í sálu þinni, mun syndin verda þér jafn vidbjódslig sem óttalig, svo ef þú skyldir lifa leingur mundu þær verka hjá þér stödug sinnaskipti, og lífernis betrun.

O, þó er þetta, sem sagt er, ecki eins kost-ar nóg til ad frelsa sálu þína. Þad er ecki nóg fyrir þann sjúka til heilsubótar, þó hann hrædist sjúkdóm sinn og hati orsakir hans, hann verdur líka ad fá dugligt Læknismedal vid hon-um. Eins er fyrir þér; þad er ecki nóg til ad lækna sálu þína, þó þú hrædist syndir þínar, og jafnvel hatir þær; adal- og einka- Læknismedal-id er falid í trúnni á Jesúm Christum.

Gjæt því ad, hvad miklu Gud kostadi til, ad frelsa heiminn frá syndinni; hugsa til þess, ad hann gaf sinn eingétinn son Jesúm til ad lifa, lída og deya í syndaranna stad, svo þeir, sem á hann trydu, gjætu feingid syndanna fyrir-géfníngu og eylífa sáluhjálp. Af þessu sérdu tvennt: fyrst þad, hvörsu Gud hatar syndina, þar hann mátti ei hana fyrirgéfa, nema hans Sonur lidi fyrir mannkynid; þarnæst, hvad annt honum þó er um mannanna velferd, ad hann vann þad til, ad géfa sinn eingétinn Son út fyrir oss, jafnvel þó hann fyrirsæi ad margir mundu ónýta'á sér þetta Frelsismedal. Þessvegna máttū nū álita þad þína stærstu synd af ollum, ad þū þetta blessada medal vanrækt hefur, og ecki elskad Gud fyrir Jesúm Christ, né Jesúm Christum fyrir þad hann dó fyrir þig; sem sést af því, ef þú hefur syndina, fyrir hvörja hann leid, vís-

vitandi elskad og æft; því hvør hann syndina gjørir, sá er af Djøflinum. Én samt er nú þad einasta ráð fyrir þig, ad þú sem dauda makligur syndari, skrídir ad fótum þess módgada Guds og Fodurs Drottins vors Jesú, og bidjir hann, af øllum lífs og sálar kroptum, ad fyrirgéfa þér syndir þínar, vegna síns Sonar fórnar og fridþægíngar; já ad þú bidjir nú Jesúm sjálfan ad taka málstad þinn, hjá sínum Fodur, og ad hann, láti þig ei gjalda þíns ótrúskapar í ad elska hann og hlýda honum allt híngad til; og berdu þig efunarlaust ad treysta því og trúa, ad hann þetta gjøra muni, þar hann hefur lofad ad hann vilji eingan fra sér reka, sem sannydrandi til hans kémur, heldur jafnvel bodid þvílíkum til sín ad koma.

7. Midt í þessu skaltú af allri alvøru endurnýa þinn Skýrnar sáttmála vid Gud, og streingdu þad heit í sálu þinni, ad þú skulir trúr vera Gudi þínum og Frelsara, allt til þíns lífs enda, en hreint afseigja syndinni — einkum þeim syndum sem þú um æfi þína hefur helst ínetjast og verid hneigdur til — allri vísvitandi þjónustu framveigis. Bid sídan Gud, af øllu hjarta, í Jesú nafni, um sinn heil. anda, svo hann fullkomliga endurskapi þitt hjarta, og gjøri þig ad einni nýrri Manneskju og sønnum Jesú lærisveini, sem

vilji eptirfylgja hönum og hlýda allt til daudans hvad mikid sem þad skyldi þig kosta.

Gétir þú nú, kiæra Manneskja tekid þvílík sinna skipti, þó seint sé — og þúsund sinnum betra verid hefdi, ad fyrri hefdi skéd — getir þú tekid þau, seigi eg, svo allt þitt hugarfar svo umbreytist, ad Gud — sem allt veit — siái fyrir, ad þú mundir, ef leingur lifdir og feingir heilsu þína aptur, standa stödugur í umvendun þinni og færa af henni ávöxt í gudligu líferni, leyndt sem ljóst, þá, svo sannarliga sem Gud lifir, vill hann þig til nádar taka og fyrirgéfa þér syndir þínar, fyrir sakir síns sonar Jesú fridþægíngar; og ef hann lætur þig nú deya, þá mun hann taka þig í sína Paradís, med þeim ydranda Ræníngja.

Haltu svo á fram ad vaka og bidja, medan lífid vakir í brjóstinu, og skammastu þín ecki ad láta heiminn heyra, ad þú sért til Guds umventur; áminn því adra ad gjöra hid sama, medan Gud géfur þér mál og rænu. Hafir þú nockurn mödgad fyrir sakleysi, bid hann forláts; en hafi adrir mödgad þig, fyrirgéf þeim af hjarta. Bid fyrir öllum mönnum, vinum og óvinum. Hafirdú rángfeingid góts undir höndum, skila því aptur, ef möguligt er, annars legg þad fátækum. Liggi meinsæris synd á Samvitsku þinni, tak eid þinn opinberliga aptur, og seig heiminum, svo vel sem Gudi, hvörsu þú syndgad hafir. Lid kross-

inn þolinmóðliga, og kystu á þá hönd, med þackláti, sem typtar þig, og bid hana ad græða sálu þína, hvad sem hún vill vid líkamann gjöra. Horfdu inní eylífdina, og gleymdu því tímanliga, svo þad hindri þig ecki. Láttu þig lánga þángad, sem andar þeirra algjörliga réttlátu búa, til ad vegsama Gud ásamt þeim. Vid at blód Sáttmálans, Jesu blód, rjódrist á þína hjartans dyrustafi, ádur enn þú gánga skalt út af þessa lífs húsi, til ad ferdast gégnum daudans rauda haf, eptir Jesú þínum hertoga og Frelsara; svo mun Sálu þinni óhætt verda. Gud gési þessum ordum sigur! Amén!

---

Bæn fyrir eina Manneskju í andursögdu ástandi.

Miskunsamasti Gud, útskúfa þú mér ecki þínum óverduga Syndara, sem midt í sinni sorg og pínu, flýr nu til þinnar nádar i Christo Jesú! Jafnvel þó eg vanrækt hafi dag hjálpræðisins og forsmád þinn Son og hans sáluhjálpligu nád, seigdu nú samt ecki vid mig: þad er of seint! þín fyrirheit i Christo eru frí og yfirfljótanlig, sem fyrirgéfníngu lofa öllum þeim, sem í þessu lífi verda ydrandi og trúadir. O ad eg hef disundid mína synd, fyrr enn hún nú finnur mig! O ad eg hefdi hryggst út af henni, fyrr enn

hún nú kvelr mig; O ad eg hefdi þekt mitt guds-leysi, fyrr enn mínir líkams kraptar eru nær ad þrotum komnir! En vertú miskunsamur yfir eymd minni, fyrir sakir þeirrar fridþægíngar, sem þú medtekid hefur í þíns Sonar dauda!

Minstu ecki Synda minna, hvorki ýngri ne eldri; minstu ei þess hvørsu opt eg syndgad hefi móti miskun þinni, móti þínum anda og áminníngum minnar Samvitsku. Eg hefi syndgad dárligá sem manneskja, en fyrir géf þú mér nádarsamliga sem Gud! Ef mér finnast þær þjáníngar þúngar, sem eg nú líd á líkamanum litla stund, hvørsu óþolanlig mundi þín brennandi reidi verda þá á sálu minni eylífliga! Géf mér sanna umvendun til Lífsins! géf mér ad minn andi endurnýist fyrir þinn heil. anda, og fyrir krapt Jesú kærleika! Helgadu mínar þjáníngar, svo þær verdi tilefni til ad hreinsa Sálu mína! Gjor mig hluttakandi í helganinni! Sparadú mig enn þá litla stund, og géf mér tíma til ad undirbúa mig, adur enn eg fer þángad, hvadan eg mun aldrei aptur koma! Láttú ei Sálu mína byrtast fyrir þínum tróni í syndafullu ástandi, heldur géf mér líf í þér, ádurenn eg dey! Eg hefi misbrúkad þitt lánglundargéd; eg hefi misbrúkad mína heilsu, mitt Líf, mína von, og eydt

til ónýtis morgum dýrmætum tíma, sem nú verdur ei aptur feinginn. Ad vísu vissi eg þennan dag fyrir; eg hefi verid advaradur um hann af þínum þénurum, og af minni eigin Samvitsku. En eg hefi samt gleymt honum, og þessvegna er sála mín ótilreidd ad mæta fyrir þér. Mín Synd og þitt réttlæti hræda mig; eylífdin skélfir mig; því eg er enn nú ei fullviss um ad géta umflúid eylífa hormúng og pínu. Eg hefi ecki ecki snúid hjarta mínu til himinsins, og ecki lifad í himneskri hegdun, sem sá, er laungun hefdi til ad fara hédan og vera med Christo og til ad géta med djörfúngu og gódri von mætt fyrir alls holds dómara. Æ fyrirgéfdú mér syndir mínar, fyrir míns Endurlausnara fyrirbónar og forþénustu sakir! Snudú þér Drottinn, og frelsa Sálu mína; frelsa mig fyrir þinnar misskunar skuld! Deyddú mig ecki, fyrr enn eg er undirbúinn til annars betra! Slittu ecki minn lífsþrád, fyrr enn eg er hæfur til eylífdarinnar! Lát mig ei deya í mínum syndum, og ecki falla í þínar réttlætis hendur! Eg dæmi mig sjálfan, æ fordæmdú mig ecki! Ef þú villt leingja Lífdaga mína, þá er minn fasti ásetníngur, ad elska Jesúm, og leita þeirra hluta, sem hér uppi eru; ad afneita syndinni og lifa þér. En med því eg fæ þessu ei orkad, án þinnar nádar, æ svo géfdú mér nú bædi tíma og

náð þar til! En viljirðú ecki reyna mig leingur hér á jörðunni, æ þá hreinsaðú, Guð minn, sálu mína með Jesú blóði, áður enn hún fer af líkamanum! Sýndú mér þína elsku, og unn mér að sjá einn lítinn geisla af þinni himnesku dýrð, svo mín trú, von og kiærleiki géti styrkst til að afneita heiminum og yfirgéfa hann, en koma til þín með fögnuði! Jafnvel þó eg híngað til hafi ei að fullu þeckt þig, æ sinjaðú þess samt ecki, að þú þeckir mig, svo eg ecki fari héðan í burt með þeim, sem óréttinn fremja! Ef þetta skal nú vera allur sá tími, sem þú villt unna mér að leita náðar þinnar, þá, enda þó hann stuttur sé, lát hann samt vera þann þér þægiliga og mér heutuga tíma!

Æ vertú náðugur, vertú náðugur mér þínum vesæla og óverðúga Syndara, og lát mig ei verða eldibrand í helvíti eylífliga! gjör þú dýrðliga á mér þína miskun í Christo mínum fullkomna Frelsara, til hvörs eg nú flý, og fyrir hvörn eg vænti bóta öllu minu Sálar böli og hanni! O Jesu, meðtak þú mig nú, sem þína eign, og giörðú mig réttlátan fyrir þína dýrmætu Forþénustu! Lát þinn heil. Anda endurnýa mig, og þína náð yfirgnæfa, hvar syndin yfirgnæfir. Þú hefur siálfur lofað, að hvörn sem til þín komi, þann viljir þú ei útreka; æ lát þá mig,

þinn fjandmann, verda forlíktan vid þinn fødur, þinna vegna, og útvalinn til Lífsins medерſíngja, og ſet mig óſtraffanligan fyrir þíns fødurs augſlit, med fognudi! Hvert ſem eg lífi eda dey, þá girniſt eg ad vera þinn eigindómur. Jafnvel þó eg brotid hafi minn Skírnar Sáttmála vid þig, ſvo endurnýa eg hann nú aptur og ofurgéf mig ad øllu leiti mínum fridþægda Gudi og Fødur, mínum Frelſara og mínum Helgara! Medtak þú mig nú, ádreif mig Sáttmálans blódi, og innſigla mér ſáttmálans bleſſanir! Svo jafnvel þó eg hafi unnid til ad hafa mína viſtarveru medal Djøflanna, þá unn mér ſamt ad ſjá þína dýrd, fyllaſt af þínum fognudi, og medal Einglanna og þinna útvøldu vegſama minn Skapara, minn Endurlauſnara og minn Helgara, um allar aldir alda!

Amen! Amen!